# Sorgar-Þánkar
vid Grøf
þess sæla Høfdingia
Biskupsins yfir Skálholts-Stipti
Doctors
# Hannesar Finnssonar,
eins
hans harmandi Vinar,
þann 23ia Augústi 1796.



Leirárgørdum vid Leirá, 1796.
prentadir af Bókþryckiara G. J. Schagfiord.



Lagid er: Þier, Drottinn! þacka eg.

1.

Hvad veldur: Island ad
Afhynd miøg dapra ber?
Því ángurs óp um þad
Allstadar heyrast fer?
Því hylst þad hrigdar-skyium?
Liós fagurt sloknad Landsins er!

* 2 2. Því

2.

Hví Gydiu Menta má
Margt falla tár á kinn?
Hví grátna hefia brá
Hennar born? esni' eg finn:
Þau mildann mistu Fødur,
En hún Elskara syrgir sinn!

3.

En — Pocka-Gydiur hví
Þurrlegar virdast mér?
Þær, sem um bygd og bý
Budu inndæli' af sér!
Eg heyri allar svara:
Handgenginn Vinur horfinn er!

4.

Ødúnga ángurs-mein
Og Kénnivald hvert ſkér?
Því úngra vol og vein?
Veitſtu: Því Skálholt ſier
Hulid allt harma-blæum?
*Hannes* Biſkup andadur er!

5.

Þángad nú þyrpiſt enn
Þreyénda ſkarinn fár,
Sorgbitnir merkis-menn,
Mannvinur lágur, hár;
Vid Lands- og virdta-Vinar
Framlidins Grøf ad fella tár.

6.

Grátum! Því ærid er
Efni til gráts um sinn!
Grátid, sem medur mér
Mistud hér Ástvininn!
Trygdreyndann besta bródur,
Biskup og Lærifødurinn!

7.

Þér, sem Hans þecktud dygd,
Þér, sem Hann fræda vann!
Þér, sem Hann tók vid trygd,
Tiáid: var betri' enn Hann?
Siáid Hans grøf og segid:
Syrgia hvert ber ei Þvílíkann?

8. Siá-

8.

Sjáid Hans sæti audt!
Sýnid hvørr sylla má!
Gét eg, ad grátin traudt
Gydianna þerrist brá.
Hvørs mætti høfdi fara
Hatturinn *Doctors* eins vel á?

9.

Kom eg á fund þinn fús,
Fullsæli Bródir! æ;
Þá nálgast þitt jard-hús,
Þér tárum offrad fæ;
Mér er þinn missir bættur,
Í dírd þá þinni nálægd næ!

10. Lærd-

10.

Lærdóms á medan ment
Monnum fær heidurs safn;
Og Manndygd lof er lént,
Leita má: hvar er jafn?
Á medan aldir lifa,
*Doctors* Hannesar deyr ei Nafn!

M. Stephensen.



